ad þö hier være nockur öjöfnudur å, þå fielle sier hann vel i gied, og mætte þad enn nü reinast betur. Styr spyr og Halla hvert hônum stande hugur til nockurar konu (ss). Halle seger þad vera. Styr spyr, hvar? Halle seger: Vermundr eigi þar svôrum ad råda, og munde þad med 'hanns adfylge takast mega. Styr tekur eingu fiærre, og fella nu þetta tal um sinn. Skômmu sidar vekur Leikner sama mål. Styr mællte til Skaps müna ertu miôg vid mitt lynde, en þess skalltu giæta, ad þü hefur ecke fie möte ad leggia. Leikner svarar. þö eg sie madur fielaus, þå kann vera eg gete unned þau verk þier til vilia, sem adrer menn få ei orkad, og med þvi möte leyst mig frå fiar tillage, enn vered þier jafnan hier epter til lids med Halla brödur minum. ått þu motstôdumenn marga, og er þier þvi þôrf traustra manna; enn þu fåer mier bölfestu nockra. Styr qvad þad satt vera, þvi sier være stort traust ad þeirra giôrfugleika, og villde hann giôra þar nockra tilraun å ådur. Þyker nü Berserkiunum eige övænlega åhorfast.

985. Um vored ridur Styr ut ad Helgafelle til Snorra. vinatta var þå göd þeirra å millum. geck Snorre å veg med hônum og ræddust þeir vid allan dagenn, enn einginn madur visse hvad þeir tôludu, edur hvada eyrende Styr atte vid Snorra. eru berserkerner miôg

---

1. være] *sål.* B, T, R; sie A. fielle] falle R. 3–4. hôn-um—konu] *ikke fremhævet ved frakturskrift og forekommer ikke i citat-fortegnelsen.* 7. fiærre] fiær R *og opr.* T. 8. um sinn] ad sinne R *og opr.* T. Skômmu] *sål.* B, T, R; Litlu A. sama] þetta R *og opr.* T. 10. ecke] *sål.* B *og ved rett.* T; eige A; ei R. 12. verk] sem þrek er i *tilf.* A. 13. få—orkad] *sål.* B *og ved rett.* T; eru ei i færum um A, R. 15. motstôdu-] övilldar- R *og opr.* T. 17. fåer] *sål.* B, T, R; få A. 19. tilr. å] raun til R. 21. Sn.] goda *tilf.* R. 24. eing-inn] *sål.* B, T, R; einge A. hvada] hvad R. 25. vid] til R.

epterleitner um konumálenn og einna mest Leikner. Styr seger, hann verdi ad syna nockurt þrekvirki ădur. Leikner læst þess albűenn, og spyr hvad þad sie. Styr mællte hier er hraun hiă bæ minum illt yferreidar, hefe eg opt huxad, ad eg villde lăta giőra veg þar um og rydia þad, enn mig hefur skort mannstyrk. nu villda eg þű giőrdir þad. Leikner seger þad þyke sier eige miked fyrer, ef hann niőte lids Halla brődur sins. Styr sagde hann mætte þad vid hann eiga. Taka nű berserkernir ad rydia hrauned ad kvőllde dags, og ad þeirre syslan eru þeir um nottena. vega þeir stőr biőrg upp þar þess þurfte, og færa ut fyrer brautena, enn sumstadar koma þeir stőrum steinum i gryfiurnar, enn giőra sliett yfer, sem enn mă siă. var þă ă þeim hinn meste berserks găngur. Um morguninn hőfdu þeir þvi lokit, er þad eitt hid mesta storvirke er menn vita, og mun să vegur æ halldast, med þeim ummerkium, sem ă eru, medan landit stendur. Skulu þeir nu giőra eitt gerde, og hafa þvi loked ad dagmălum. A medan byr Styr þeim bad, sem þeir skulu i fara þă þeir hafa afloked gerdenu, enn ad morgne skal Leikner hafa brullaup. Baded var so tilbűed: ad þar var felldur stőr hlemmur ofan i gőlfid, med einum glugga ă, sem vatninu var innum hellt. hűsed var grafed i iőrd og voru dyr fyrer þvi med sterkum stockum, og hűsed allt af nyium vidum, og hid

3. læst] segest R *og opr.* A, T. albűenn] allfűs R *og opr.* T. 5. -reidar] *sål.* B, T, R; -ferdar A. 13. fyrer] yfer R. 15. hinn meste] mikell R *og opr.* T. Um] Og um R. 16. er] og er A. eitt] *udel.* R. 17. stor-] þrek- R. vita] *sål.* B, T, R; vite A. æ] *udel.* R *og opr.* B, T. 21. enn] og R. 25. hűsed—þvi] dyr voru fyrer husenu R *og opr.* T. 26. stockum] stőlpum B *og opr.* T, *men her rettet til* stockum, *og dette ved tilf. œndret til* bialkum.

rammbyggelegasta. Skarer voru fyrer dyrunum upp ad ganga. Um morgunenn þă þeir eru ad gerdes smīdenne lætur Styr Asdise bŭa sig sem allra best, enn bannar henne ad vara berserkena vid, hvad hann hafe i răde, og ădur enn þeir hafa loked gerdenu, gengur hun burt fră husunum ă svig vid berserkena þar þeir eru ad sinu starfe. Leikner kallar til hennar, og spyr hvert hun vilie, hun svarar eingu. Þă kvad Leikner visu þessa[1]

Hvert hafit gerdr um giorfa
gang faur lidar hanga
liug vættr at mer leyiar
līnbundin fŏr þina
þviat i vetr en vitra
vángs sa ek þik gánga
hirdi dis fra husi
huns skrautliga bŭna.

Nú hafa þeir afloked þessu starfe, gengur Styr i mŏte þeim. þackar þeim med fŏgrum ordum fyrir starfed og segest nu hafa bŭed þeim bad, er þeir skule i fara.

[1] hŭn er so epter Eyrbyggia Sŏgu — *Lpz. s. 47* —, og so minner mig visan være, enn hvert hin, sem i Eyrb. epterfylger var þar, minnest eg ei.

1. Skarer] *sål.* B *og ved rett.* T; Trŏppur A, R. dyrunum] *sål.* B, T, R; hŭsenu A. 2. eru] voru R. 3. smīdenne] smīdenu R. Asdise] Þordijse R *og opr.* T. 6–7. bers.—starfe] þă burt fră bænum R. 8. vilie] *sål.* B, T, R; skule A. visu þessa] þess innehalds, ad hann hefde aldrei sied hana i vetur so skrautlega bŭna *(med udel. af visen)* R, *og opr.* T (um veturinn *for* i vetur *og med visen indført i noten), som endv. på en indskudt seddel giver verset med de i Eyrb. 2 efterfølgende efter Hraundals-Edda (AM. 166, 8vo).* 17. hafa þeir] þa þeir h. *ved rett.* T. 17—19. gengur—hafa] *sål.* B *og (ved rett.) væsl.* T (*dog* forkunnar vel *for* þeim*(2) og tilf. i marginen* med f. o.); seger nŭ Styr, ad hann hafe A, R.

hafe þeir nú þad þrekvirke unned, er sier allvel hugnest, og uppe mune verda um alla æfe. Halle er i fyrstu eige rádenn ad gánga i bad, og spyr ef eige skule fleire ganga i badstofu med þeim. Styr svarar. þad mune eige hendt ödrum mönnum ad ganga i bad ásamt slikum afar mönnum, sem þeir eru. enn Leikner vill giöra þad ad vilia Styrs. Nú setiast þeir i badstofu, og er hlemmurenn lagdr yfer, og bored griót á. dyrunum er og lokad, og bored griót fyrer sem ramlegast, enn á skarirnar er breidd blaut uxahúd. Badstofan er giörd ákaflega heit, enn þa þeir hafa seted i badenu litla stund, lætur Styr bera sem odast brennheitt vatn, og steypa inn um gluggenn. Finna nú berserkerner, ad eige er allt heillt vid þá, hamast þeir nú i badenu, og briótast á hlemmenn, sprïngur Leikner inne, enn Halle kemst út, og er hann kemur á skarernar, verdur hönum fótaskortur og fellur á húdenne, enn Styr er þar fyrer med reidda öxe, og höggur á háls hönum, so Halle liet þar lífed. Ad þessu verke unnu lætr Styr leida heim þiöra tvo tvævetra, og höggur þá, þvi þad var trúa i þá daga, ad ef so være giört, yrde ei af eptermálum. Spurdest þetta vida, og ræddu menn misjafnt oꝼ vig þeſſe (*ss*). Skömmu 985. sidar gipte Styr dóttur sina Snorra goda, og vard hann vid þær teingder traustare móte óvinum sinum.

---

1. all-] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. -vel] *udel.* R. 5. mönnum] *sål.* B; *udel.* A, T, R. 9. er og] so *tilf.* R *og opr.* T. 9—10 ramlegast] rambiggilegast R. 10. skarirnar] *sål.* B *og ved rett.* T; tröppurnar A, R. 12—13. bera—gluggenn] hella storum inn um gluggann brennheitu vatne R. 16—17. skarernar] *sål.* B *og ved rett.* T; tröppurnar A, R. 20. þiöra] *Ordet mangler* »ss«, *men er fremhævet og forekommer i citatlisten.* 23. ræddu—þeſſe] *Hele sætningen (med forandret ordstilling) forekommer i ordlisten, men kun* oꝼ—þeſſe *fremhæves i teksten.* Skömmu] Litlu T, R.

yriar Cap.

Nū vaxa so metord og yfergangur Styrs ad flestum stōd mikell ōtte af. Þōtt hann vægе menn, bætte hann eingu, og urdu flester so ad lāta vera sem hann villde, þvi einge feckst rettur yfer hȯnum. Stōdu marger rīker menn ad hȯnum, viner og māgar, so fāer þordu ad veita hȯnum nockrar til giȯrder. Madur het Einar (*mm*). ā hann talde Styr nockrar saker, og liet dōmendur dæma sier stōrar fiebætur. Þesse madur atte Akur eyar ā Breidafirde. slō Styr ā þær eigu sinne, enn einge mællte ā mōte. flude madurenn af būe sinu, og duldest um sumared hingad og þangad i Breidafiardar eyum. Um veturinn fōr hann ūt ā myrar, og skaut Þorhalle ā Iȯrfa skiōle yfer hann og annar bonde þar nālægt ā Iarngerdarstȯdum (*mm*). hielldu þeir hann til skiptes um veturinn. enn um vorid epter villde hann flytia sig sudur til Borgarfiardar, og hafde einn edur tvo hūskarla med sier og faeina klyfia hesta. Styr hiellt spurnum fyrer þessu, og reid heiman vid nockra menn, og vard vis hvar hann hefde vered um nōttena. reid hann epter hȯnum upp frā bæum, og sā ā einum litlum hālse til manna undan sier, enn þā þeir urdu varer vid epterreidena, foru þeir af almennings vege, enn af þvi þeir foru med klyfia hesta, enn hiner ridu lausu, og ȯrt ā epter, bar brātt saman med þeim. Liet madurinn hūskarlana undanfara, og meinte Styr munde helldur epter þeim rīda, enn Styr þeckte mannenn og snyr af brautenne eptir hȯnum. þar var myrlende er þeir hittust, so ei vard greidrided. Styr spyr hvad vallde þessu fyrertæke hanns ad flytia sig ūr bygdum,

---

3. u. fl.] *sål.* B *og ved rett.* T; fl. u. A, R. 4. einge] eingenn R. Stōdu] og *tilf.* A. 10. einge] eingenn R. 14. Iarngst.] *Nogen gård af dette navn forekommer ikke i disse egne.* 18. vid] med R. 24. og] *udel.* B. 26–27. mannenn—hȯnum] *sål.* B *og ved rett.* T; hann A, R.

edur þvi hann hafe fyrer sier dulest. hinn svarar ad flestum sie kunþugur ofse hanns og yfergångur, og hafe hann skiled margann vid lif, sem hann hafe lagt minne þyckiu å. Styr seger hann bere sðk å bake sier med þessu fyrertæke, og hafe hann nőgar saker til ad drepa hann, og þess eyrendis sie hann komenn. Madurenn hleypur af hestenum, og vill taka til főta og renna undann, en þad vard torsőkt, þvi myrin var blaut, og fell hann i henne, enda voru hiner fleire er eptersőktu. verdur þad skilnadur þeirra ad Styr vegur hann þar, dysiar, og lyser vīgenu sidan. þå qvad Styr visu *i hverre hann segest nű hafa veged 33. menn (ad visu, edur 36. þő minner mig ad hid fyrra stæde i sðgunne) sem hann hefde eige fiebőtum bætt, og so vard um þetta vig.*

Af Þorhalla.

Nű telur Styr fullar saker å þå båda, Þorhalla og *byriar Cap.* hinn, er hallded hafa ådurgreindann mann. åttu marger hlut þar ad til fridstillingar. verdur hinn bőndinn fyrer fiår űtlåtum, en af þvi Styr þotte Þorhalle hafa ått hier meira hlut i. þå krefur hann af hðnum meire bőta. giðrest så same å måle þeirra, ad Þorhalle skal standa hðnum kost, þå hann vill hiå hðnum gysta, hvert sem hann fer frå edur til, edur hvad marga menn sem hann med sier hefur. heiter Þorhalle þessu, þvi hðnum leitst þűngt ad etia kappe vid Styr. lida nu nockrer timar ad so fer framm, enn Styr þottest hafa þeim i veitt, þad er hann liet þa līfe hallda.

---

1. svarar] seiger R. 15. *I citatlisten opføres et* ðæll, *som ifg. forf. skal angå denne Einar.* 18. hafa] hðfdu R. 20. St.] at St. B. 23. kost] *sål.* B, R *og opr.* T; fyrer koste A *og ved rett.* T. hann] *sål.* B, T, R; Styr A. 26. nockrer timar] *sål.* B, T, R; nockur missere A. 27. fer framm] *sål.* B *og ved rett.* T; stendur A, R. 28. þad er] *sål.* B *og ved rett.* T; ad A, R.

*rriar Cap.* Þau tidende giòrdust eitt haust, ad midur heimtest af fiòllum enn vant var, þo vandlega være leitad. Kendu menn þessar illar fiarheimtur ûtelegu þiôfum, nema ef einhverier være i bygd þeir er þessu ylle, enn þad vard þô ei uppvîst. Styr var þar mestr Sveitar hòfdinge, og sette hann þau lòg med fremstu bændum, ad hver madur skyllde eitt audkenne brûka â fie sinu, og sijna nâgrònnum sinum. Sumared epter ber so vid eitt sinn ad von er â Styr til Iòrfa. Þar var einn alenn hrûtur, sem â sumrum gekk i tòdum og tûnum, ômarkadur, þvi hann var alltid heima vid bæ, og geck eige med òdru fie. hann var glettenn vid vinnukonur, og spillte opt miôlk þeirra, lògdu þær til hann være slâtradur, ad fagna Styr med, þvi hann var vel feitur. Þad þotte hende næst og â þad fellst hûsfreya, sem (*mm*) Þorgerdur hiet. var nû so giòrt. Styr kemur, og gister þar um nott, er hònum giòrdur gôdur beine sem vant var. ad morgne, âdur Styr vill burt, ganga þeir til dagverdar. er nû slâtred af hrûtnum bored framm. og fylgde þar hòfuded med. og þâ þeir sitia ad bordum, tekur einn Styrsmanna hòfuded upp, og seger þetta sie geisefeitur saudur. Styr lîtur til, og skodar hòfuded og mæler: þetta er furdumikid hòfud, edur synest òdrum sem mier, ad eckert er audkenne â eijrum, þeir segia so vera. Styr mællte. veitstu þad eige Þorhalle, ad vier sveitarhòfdingiar hòfum i lòg sett, ad hver madur hafe eitt mark â fie sinu, enn þetta er ômerktur saudur. Þorhalle qvedst þad vel vita, enn seger ad saudur þesse hafe genged heima i tòdum,

---

1. Þau—giòrdust] *sål.* B, T, R; Þad bar til nylundu A. 2. vant] vande R *og opr.* T. 4. þeir] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. 6. hann] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. 9. â Styr] *sål.* B, T, R; Styrs A. 12. vinnu-] grid- *ved rett.* T. 17. beine] greide R *og opr.* T. 18. ad morgne] um morguninn R. 19. dagverdar] matar R *og opr.* T. 25. eijrum] eyrunum B. vera] er B, T, R (ad so er). þad] *sål.* B, T; *udel.* A, R.

sidan hann var lamb, og hafe menn þvi eige hirdt ad leggia mark å hann. Styr mællte. ad samt hefde hônum bored ad syna hann någrônnum sinum, so þeir bere vitne hier um. Þorhalle seger, ad hverke þeim nie ôdrum sie þad dult, þvi saudurinn hafe helgad sig hanns eign, þar hann hafe heima vid bæenn genged fyrer allra augum ô åtaled. Styr seger ad þad hæfe þô ei at bændur kaste ordum Sveitar hôfdingia under fætur sier so gålauslega, og hafe hann opt eige låted minne saker ôhegndar. Þorgerdur kemur ad i þessu, og seger ad þad sie ôjôfnudur stôr, ad Styr kenne bonda sinum þiofnad, og laune þannen godan greida, sem menn hanns hafe optsinnis illa þeged. verdur hûn ôdamålug miôg, enn Styr svarar fåu, enn safnar reide, og seger hann mune eige lida bændum lagabrot ôrefsad, og so kunne hier ad verda. Skiliast þeir sidan, og likar hverutveggium allilla.

Nû huxar Þorhalle um þetta mål, og þyker þungs ad von þar sem Styr å hlut ad. magar og frændur hanns voru i Borgarfirde. Fer hann sudur um hausted seint, og spyr þå råda Kleppjarn, Illuga svarta og Þorstein Gislason mag sinn. Þeir råda hônum ad færa sig burt ûr heradenu, og sæta eige leingur ålôgum Styrs, þvi eige mege vita, nema hann byde liftiôn af hanns vôldum. og biôda þeir hônum þangad sudur til sin, so hann

2. leggia—å] *sål.* B *og ved rett.* T; marka A, R. 8. at—kaste] *sål.* B; bændum ad kasta A, T, R. 9. so] *udel.* R. opt] *sål.* B, T, R; optsinnes A. 11. sie—stôr] ojafnt hafest þeir ad, Styr og bonde sinn *ved interlinear-tilf.* T. 12. sinum] um *tilf.* R *og opr.* T. 13. opts.] *sål.* B, T, R; margopt A. 15. ôrefsad] *sål.* B *og ved rett.* T; ôrefst *ved rett.* A; ôstraffad R. 17. hverutv.] badum *ved interlinear-tilf.* T. 18—19. þungs ad von] *ikke fremhævet, men må svare til citatlistens* honum var þûngs af von; ills *for* þungs R *og opr.* T; eins *for* ad *opr.* T. 19. å—ad] *sål.* B *og ved rett.* T; er A, R. 22. hm.] til *tilf.* A *og opr.* T. 23. b.] i b. R. 24. hann] ef hann R. 25. þeir] *udel.* A, R *og opr.* T.

sie óhulltare fyrer Styr, og skule hann flytia sig ad vore. Þetta bod þeckest Þorhalle, og þyker allgott rád. fer heim til sin vestur, og lætur ecke á þessare rádagiörd bera, og lidur nú so af veturinn. Vored var kallt og vindasamt, og vída hardt mille fólks. var þvi illt til hesta, og komu grös seint upp. lætur Þorhalle eckert á sinu áforme bridda, og bídur framm til þings, þar til Styr er ridenn heimann, og vill þá flytia allt sitt sudur, enn Styr fær þó niósner her um. Nú spyr Þorhalle ad Styr er heimanfarenn, og her um epter tvo daga *(ad mm)* tekur hann sig upp, og flytur nú fyrst búsgögn sin hefur hann medferdes IX klyfiada hesta, og einn húskarl med, sem Ingialldr het. ætlar hann i næstu ferd ad flytia sig alfared med konu og börnum. Styr hefur fenged grun af fyrerætlun Þorhalla, snyr af vege sinum, og setst i veg fyrer hann sunnann i heidarbreckunum, þar hann veit ad leid Þorhalla liggur um. Styr reid vid fimta mann. Nú kemur Þorhalle med húskarle sinum vestan af fiallenu ofan i breckurnar. húskarlenn var betur skygn enn Þorhalle, og segest siá þar menn i einne brecku, og segest ugga, hvert allt mune trútt, og mætte vel ske ad her være Styr. Þorhalle segest vera fyrer þvi óhræddur. Þá þeir koma nockru nær, segest Ingialldur þeckia ad þetta er Styr, og mune hann hafa eitthvad illt i sinne, þar hann hage so ferdum sinum, og telur besta rád, ad þeir snúe aptur, þvi þó þeir hafe hesta lúnare, þa meige enn vel takast ad rída undan þeim vestur af fiallinu, og þá verde þeim nog til mannastyrks.

3. ecke] *sål.* B *og ved rett.* T; eige A, R. 3—4. þessare r.] *sål.* B *og ved rett.* T; þessu A, R *og opr.* T. 7. s. áf.] *opr.* þessu T. þings] *sål.* B, T, R; alþings A. 16. snyr] snyst R. 25. hann] nú *tilf.* A. 26. telur] *sål.* B *og ved rett.* T; seger þad sie A, R. 27. hafe] *sål.* B, T, R; hefde A. 29. vestur] nordur R.

Þorhalle vill þad eige, og segest alldrei skule so hræddur ad hann renne undan mônnum, þő fleire sieu, og binde so med hrædslu saker ad siălfum sier. vite hann ·ei helldur, ad hann hafe giòrt þær saker vid Styr, ad þess sie verdar, ad hann leite epter bana sinum. Ingialldr vill samt til baka rída, þvi hann hafe skiőtare hest, og afla sier manna, ef þeirra kunne ad þurfa, sem sier synest, og vidskipte þeirra yrde ei so skiőt. Þorhalle seger hann mege þvi răda, þvi ef Styr hafe víg i hug, mune hann epter sier sækia helldur enn hônum. rídur nű Ingialldur til baka þad hradast hann getur, enn Þorhalle rekur ăframm hestana sina leid, og lætur sem hann verde þeirra eige var. Þegar þeir siă Þorhalla, skunda þeir ă hesta sina, og rída i veg fyrer hann. mætast þeir Styr og heilsar Þorhalle hônum vingiarnlega. Styr spyr hvad vallde þessum tiltektum hanns, er sier litest hann vilie flytia sig űr heradenu? Þorhalle segest þvi siălfur răda, þő hann leite sier betre bőlfestu, enn qvedst ei kunna skil ă þvi at hann mæter Styr hier. Styr segest so hafa tilætlad, ad þeir fyndest hier, og ad þad yrde fundur þeirra hinn seinaste. Þorhalle segest ei vita sig hafa þad til saka giòrt, ad hann þurfe ad banna sier leid sina, og eige vænte hann þess, ad hann sitie epter life sinu. Styr mællte. ad so mintest hann seinasta vidtals ă Iorfa, ad eige þylde hann hônum Lagabrot, edur nockra skapraun vid sig, og sie nű eige annar kostur enn veria sig. Þorhalle qvedst eige flyia mundu. Sækia nű menn Styrs ad hônum i ăkafa enn Styr gefur

7. þeirra] *sål.* B, T, R; þeir A. 8. og] ef *tilf.* B. 10—11. h. e.] enn ei R. 13. þ. e.] e. þ. A. 17. er] *sål.* B *og ved rett.* T; ad A, R. 20. at] *sål.* B, R *og ved rett.* T; *udel.* A. mæter] *sål.* B *og ved rett.* T; mæte A, R. 25. seinasta] seinustu T, R. 26. vidtals] vidtekta R *og opr.* T. 27. annar] *sål.* B, T, R; annars A. 28. qvedst] *sål.* B *og ved rett.* T; segest A, R.

sig eige ad. verst Þorhalle vasklega og veiter þeim mörg sår, enn verdur åkaflega mödur, þvi madurinn var vid alldur. gengur so nockra stund, ad þeir sækia enn vinna hann þo eigi, og verda aller moder. kalla þeir ad Styr ad hann kome, og sitie eige hiå enn selie sig i hættu. hleypur nû Styr ad, og skiptast þeir ei mörgum höggum vid ådur Styr höggur med öxe aptan i höfud Þorhalla, og feller hann þar. rídur þadan burt sem skiötast, en lætur reka alla hestana heim ad Hraune, og fer leid sina til þings, og giörer ecke ord å þessu. Frettest þetta nockru sidar um sumared i Borgarfiörd, og þötte vinum og mågum Þorhalla sier nærre höggved og fara stor ord frå þeim um hausted. enn þå Styr heyrir þad, qvad hann visu, i hverre innehallded var ordtæked: eigi verdr þat allt at regni er röckr i lopti, og so munde fara um hötaner Borgfirdinga.

*byriar Cap.* 1000. I þann tima giördust þau göd tidende å lande hier, ad forn trûa var nidurlögd, enn retter sidir upptekner. letu þå marger riker bændur byggia kyrkiu å

1. eige] ecke B. 2. enn v.] v. hann nû R. 3—4. sækia—og] vinna hann eige enn R *og opr.* T. 4—5. k. þ.] *sål.* B, R; Þå k. þ. A; K. þ. þå T. 7. vid] B, R *og ved tilf.* T; *udel.* A. 8. Þorh.] (helldur enn leggur hann i kvidenn) *senere tilf.* T. þadan] strax R. 9. sem sk.] *udel.* R. 10. ecke] eige R *og opr.* T. 12. Þorh.] hanns *ved rett.* T. 13. um h.] *slettet* T. 15—16. eigi—lopti] *sætningen er fremhævet, men mangler* ss; *ordene* i lopti *mangler i citatlisten og* R. *Ud for dette har i marginen* A „heyrer til supra", *men overstreget med blyant. I* T, *hvor samme overstregede marginalnotits forekommer, er hele stykket* Frettest—Borgfirdinga *(l. 11—17) sat i skarpe klammer og har været erstattet ved* Fretta menn þetta eige fyr enn komed er af þinge, höfdu Borgfirdingar rådagiörder um eptermålenn, enn af þvi metord Styrs geysudu so hått, vard ecki þar af (*opr.* af þvi), og fell þvi nidur ad so bǘnu, *men dette er senere slettet og med blyant ud for den opr. tekst tilf.* stande. *Sml. s. 3.* 19. upp-] vid R.

bæ sinum. þeirra einn var Styr, og let hann kyrkiu reisa under Hraune. Su var trua ă þeim timum, ad sa er kyrkiu let giòra, ætte răd ă so mòrgum mònnum ad kiősa til himnarĭkes, sem marger giætu staded innan kyrkiu hanns[1]. Þorhalle let tvò bòrn epter sig, het annad Gestur, enn annad Aslaug. voru þau bæde űng þă fader þeirra var veigenn. vard þvi eige ad epterműlum, og lĭda nu so timar. Gestr var smăr vexte og seinþrotska, og þőtte þvi mònnum litel þreks von ad hònum. Kom nű sa bonde ad Iòrfa sem Þorleikr het, og hiellt hann samt uppe gystingu vid Styr. őx þar Gestr upp med hònum. Epter nockur missere ber so vid, ad bændur tveir i Borgarfirde sunnan Hvĭta, verda missătter af hestagaungu. hiet annar Halldor er biő ă Feriubacka, hinn hiet Hòskulldur *(ad mm)* er biő ă næsta bæ. hestar Halldors gengu opt i hògum Hòskulldar, og eitt sinn er þeir hòfdu giòrt þar nockurn usla, vard Hòskulldr afarreidur, og hliőp heim ă bæ Halldőrs og illyrdtest vid hann, var vid siălft bued þeir mundu beriast, enn Hòskulldur drepa hestana, þvi þeir genge sier til őhelges. Styr var mikell vinur Halldors. hann skaut þessu mäle under hanns giòrd, og þvi samþycktest hinn. Sender Halldor bod vestur Styr vin sinum um hausted, ad semia þessa deilu þeirra ă millum. Styr segest koma

[1] Conf. Eyrbyggias. Cap. 34 — *Lpz. s. 92.*

1. og] *udel.* R. 2. under] *sål.* B *og ved rett.* T; ad A, R. þ. t.] *sål.* B, T, R; t. þ. A. 5. sig] *udel.* T, R. . 6. v. þ.] þ. v. A. 8. timar] framm *tilf.* A. 9. og s.] *udel.* R. 11—12. og—Styr] *udel.* R. 14. sunnan] *sammenhængen forudsætter* vestan (ɔ: norðan). 16—17. gengu opt] hòfdu geinged eitt sinn R. 17. eitt—hòfdu] *udel.* R. 18. Hòsk.] hann af þvi R *og opr.* T. 19. illyrdtest] deildi R *og opr.* T. 22. mikell] *udel.* R.

vilia, enn verda þő ad bida þess ad vatna vexter mīnke og isa legge. Fer hann nű ad heiman um veturnætur, fylger hŏnum Þorsteinn sonur hanns, sem þä var fullordenn ad alldre og nockrer menn fleire, gister hann ä Iŏrfa, sem hann var fyrre vanur þä hann fer sudur um. tekur Þorleikur vel vid hŏnum, og yfer bordum mællte hann. Þad virdest mŏnnum þű hafer fyrer litlar saker veged Þorhalla. stőd hann þier jafnan fyrer koste, og vissu aller, ad sű sŏk er þű fellder ä hann, var af einfelldne hanns enn eingre tilverknan. nű eru her bŏrn hanns űng og munadarlaus epter. være þvi hŏfdingskapr ad hugga þau i nockru. Styr segest vilia siä sveinenn. er hann nű leiddur fyrer Styr, og lītst hŏnum sveinnenn smär i augum sier, og ővænlegur til hefnda. Styr mællte. eige hefe eg bætt vīg min hingad til dags, og verdur þad nű hid fyrsta sinn, sem eg þat giore. i sumar sŏgdu gridkonur minar þar vera hrűtlamb eitt, grätt ad lit, ullar rīad, er eige villde þrīfast. nű synest mier þad riett äkomed ad sveinn þesse hafe lambed i fŏdur giŏlldenn. enn eige mun hann frekara af mier fä. Þorleikur mællte. Þetta er hverke gődmannlega nie hŏfdinglega mællt, og hefde eg annarra orda vænt af þier. er sveinenum litel huggun i þessum svŏrum. Styr bidur hann ad þegia, og seger hŏnum mune hendtast ad skipta sier ecke af þessu, mune so hliőta ad standa sem hann mællt hefur. Þorleike þyker rädlegast ad fella þessa rædu. Ridur nű Styr þadan sudur a leid, enn er von hann mune þar gista, þä hann fer heimleidis. Kemur hann ä Feriubacka til Halldőrs vinar sins, og semur med þeim

7. hann] Þorleikur R *og opr.* T; til Styrs *tilf.* A. 17. sem] ef R *og opr.* T. 25. ecke] *sål.* B *og ved rett.* T; eige meir A; ecke m. R. 28. von] til vonar *ved rett.* T. 29. K. hann] *sål.* B, T, R; K. Styr A.

**Hôskullde hestadeiluna botalaust. lætur Hôskulldr so standa, enn Halldőr gefur Styr ad skilnade gődann hest grăaun, er þeir Hôskulldr hôfdu mest um deilt, og skiliast þeir med vinăttu. fer Styr leid sina vestur.**

Af vigi Styrs.

**Geſtr ſitr nu hugſi um ſitt mal *(ss)* var hann litell ad vexte og frăr ă fæte. geimde hann fiăr főstra sins. dag þann er von var Styrs ad sunnan, sat hann ad fe og skepte ôxe sina. vard þă sa vidburdur, ad blőddropar nockrer fellu a skapted. hann qvad þă visu. kemur hann heim sidan og hitter systur sina ute, og seger henne fră. hun seger, sier þyke likast ad einhverium tidendum gegne, og villde hűn þad kiæme nidur i maklegum stad. hann qvad enn visu. Þă þau eru þetta ad mæla. ber þar menn ad garde. eru þad Styr og fylgdarmenn hanns. hôfdu þeir vôknad i Hytaraa *(ad mm)* enn Styr haꝼde ſkuadan*n* heſt *(ss)* og var þvi eige votur. Frost var um dagenn. var þeim beine giôrdur, dregnar af þeim brækur og skőklæde og kyndur elldur upp. Styr sat vid elldenn. Þar hafde vered hôfd sodning um dagenn, og stődu hitukatlar utar ă golfenu, sem sod var i. Aslaug syster Gests rekur þar i brækurnar og ber ut ă vegg. Elldahűsed var so lagad, ad handradar voru innan veggia, so gănga matte ă mille þeirra og veggianna ă bake mônnum. tvær dyr voru ă husenu. Lău adrar űt og voru þad laundyr. Fôrunautar Styrs segia, ad sparadur sie elldevidurenn. hleypur Gestur űt og**

***byriar so Capitulann.***

2—3. gődann—deilt] hestana R. 4. f. St.] enn St. f. *ved rett.* T. 9. ad] hiă R. vid-] at- R. 11. hann] *sål.* B; *udel.* A, T, R. 12. henne] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. 13. hűn] ad *tilf.* T. 18. eige] ecke B. 21. um dagenn] *sål.* B, T, R; dagenn sama A. 23. Aslaug] Þorlaug T, R, *og opr.* A, B.

sôpar saman þvi elldevidar sorpe er hann finnur. ber inn fullt fang, og kastar ôllu â elldenn, og jafnskiott ôdru fange. lystur þâ upp miklum reyk og svælu i hûsenn. hleypur Gestur þâ i handradana kring â bak til vid Styr, og hôggr med ôxe af ôllu afle i hôfud
1007[1]. hônum, bak vid eyrad hægra megenn so i heila stôd, og mællte þar launade eg þieꝛ lambed graa hleypur ut laundyrnar og skeller i lâs, enn Styr hnîgur framm â elldenn. hleypur Þorsteinn under hann. og þâ hann sier ad hann er hôggvenn til bana og ôrendur, hleypur hann ût og þeir aller saman epter Geste. Gestur rennur undan allt ad Hytaraa. aenn var rend og rann i streng â mille, enn med þvi Gestur var frâr, þa stôckur hann yfer ana. Fôru nautar Styrs komast sumer â midia leid, og snûa heim aptur. Þyker þeim illt ad etia berum fotum vid klakann, enn Þorsteinn rennur allt ad anne. stendur Gestur ôdrumegenn og varnar hônum yfer ad komast. sier Þorsteinn ad fiandmadur sinn stendur hinu megenn og vofer yfer hôfde sier. er þar vogun til ad râda. hitt er og hætta ad hlaupa â ana og snyr vid þad aptur. Enn bonde læste Styr i hûse medan þeir elltu Gest þar til Snorre kiæme

[1] Þvi þad er epter þessare Sôgu seint um haustid. enn Eyrb. S. Cap. 38. — *Lpz. s. 103* — og annalar setia vig Styrs 1008. þvi þar er ei skijrara ad orde komest, enn þad hafe vered um veturinn (þad var hid seinasta ared, sem Snorre biô ad Helgafelle, videatur Eyrbs. l. cit.).

2. fang] sitt *tilf.* A. 3. og svælu] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. 5. til] *udel.* R. 7. þar—graa] *uden* ss *og ikke optaget i citatlisten* (grå B, R). 8. hnîgur] fellur R. 9. hl. Þ.] Þ. hl. A. 10. hann*(2)*] *ved tilf.* T. 11. saman] *sål.* B *og ved rett.* T; åsamt A, R. 14. yfer] um *tilf. opr.* T. 18. yfer] þar yfer R. 19. hinu] *opr.* ôdru T. 20. og] ad *tilf.* A. 21. og .. vid þad] *udel.* R. 22. medan—Gest] *sål.* B *og ved tilf.* T; *udel.* A, R. 25. er] *udel.* A.

og sæe sär hanns, epter þvi sem lög sögdu. og fengu þeir hann eige. voru þä send bod Snorra sem skiötast, hann kom. nefnde votta ad Särum Styrs og biö um lïked. fer sidan þadan, og kemur ad kvellde til bönda þess er Snorre hiet, og biö i Hrosshollte, sagdest hafa med lik ad fara og bad um greida. hönum var veittur hann epter faungum. liked hafde dregest nockud ofan i Haffiardarä, og vöknad til höfudsens. var þvi kyntur elldur upp ad þurka þad. Snorre bad folk ad hafa kirrt um sig um nottena. Bonde ätte dætur tvær. het önnur Gudridur. hun var XVI. enn hin XIV vetra. þær hvildu bädar i einne reckiu. Þä fölk var allt i svefne og gödur time af nöttu, tök þeirre elldre so mjög ad öröast, ad hun brautst ä hæl og hnacka. hin spyr hvad velldur. hün seger ad hün hafe heyrt miked sagt af Vigastyr, enn alldrei sied hann, medan hann var ä lïfe. nü sie sier a eingu meire fysn, enn ad siä hann, hin svarar: hun skule eige mæla soddan heimsku ad vilia siä hann nü daudann, er mörgum stöd mikell ötte af i lïfenu, og bidur hana hætta þessu tale. Litlu sidar vekur hun sama mäl, og tekur nü meir ad ökyrrast enn fyrre, segest alldrei fä betra fære ad siä hann enn nü. hin yngre vill hamla sem fyr. enn sü elldre rædur meira. Fara nü bädar ä fætur. rædur sü elldre ferdinne, enn hin fer epter. Styr var rifadur i hüd, enn lïked hafde dregest ofan i äna um dagenn, og var þvi sprett frä höfdenu. elldurenn var ütbrunnenn og glædur epter. var liöst hid efra um hüsed enn dymt hid nedra. Þær gänga hliödlega inn i elldahüsed, og stilla nü hægt þangad sem Styr liggur, og skygnast nü sem

4. ad kv.] um kvöllded R. 6. bad um] beiddest A. 8. þvi] *udel.* R. 19. mikell ötte] miked ofbod R. 20. þessu tale] þessum tölum *ved interlinear-tilf.* T. 24. meira] *sål.* B, T, R; meir A. 26. þvi] *udel.* R. 28. um hüsed] i hüsenu R.

best ad hönum. og var sű elldre nær göngulare. Synest þeim þă Styr risa vid i hűdenne og kveda visu *(þad var stirdt qveden og æde draugaleg dröttqveden visa, alls őlik þessare sem menn hafa um hönd:* horfin er fagur farfi etc. *enn þő var sama meining fyrst i henne, og var þar nefndur* litr *enn eigi* farfi, *nefnde þar* i blæiu heim, *edur þvilikt, og eige bydur hann henne þar i ad kyssa sig, helldur seger, ad hűn mune innan skams byggia med sier* molldbűaheim, *edur þvilikt, þad var seinast i henne).*

Snorre vard var vid ad einhver var ă főtum, kipper fliőtlega sköm ă fætur sier, og gengur ut til elldahűssens, ad forvitnast um hvad þær hafest ad. enn þegar hűn heijrer visuna, bregdur henne so vid, ad hun æper hăstöfum, og hleypur i făng Snorra. koma menn ă fætur og hallda henne. er hűn þă so ær

---

5. s. m.] þad sömu meiningar R. 9. innan skams] skiőtt R. molldbűaheim] *sål.* B *og ved rett.* T; i m-heime A, R. 10. þad] og þ. A. 2—10. *Den af forf. nævnte vise, som folk* hafa um hönd, *kendes fremdeles på Island. I F. Jónssons (Johannæi) Hist. ecclesiast. Isl. II, 373 anføres versets 2 første og 2 sidste linjer. En fri bearbejdelse af Heiðarvíga saga fra c. 1800 (AM. 278, 8vo) gengiver den hele, og selv har jeg fået den mundtlig meddelt på Island. Også i Ísl. Þjóðsögur (I, 242) forekommer verset, men knyttet til et navnløst genfærd under andre forhold. På grundlag af AM. 278 lyder den:*

Horfinn er fagur farfi,
forvitin sjáðu litinn,
drengur i dauðans kengi,
drós hefur hvarma ljósa.
Hildar plögg voru höggvin,
háðeg valþing bráðan,
kar er á kampi vorum,
kystu mær, ef þig lystir.

[Horfinn: Farinn *medd.;* dauðans kengi: dauða genginn *medd. og IÞ. (med var.* dauðans gengi); hefur: sjáðu *medd.,* skoða *IÞ.;* hv. lj.: hvarminn ljósa *IÞ. (med var.* farfann ljósa *og* hvarma ljósin); voru: eru *medd.;* háðeg: þá h. *IÞ. (med var.* háðum vér); valþing bráðan: orrustur báðar *medd.;* v. áður *IÞ.;* kar: *sål. FJ.,* kur *278,* kám *medd. og IÞ;* á: í *FJ.;* kampi vorum: *var.* Kára vörum *IÞ.;* þig: *udel. FJ.*].

ad IIII hafa fullt i fänge ad hallda henne. linte hűn alldrei af őpe og umbrotum alla nőttena, þar til under dag, þă deyr hűn. Snorre seger vid bőnda, ad nű sie verr launadur greidenn enn hann villde, og kvedur þad eige sina skulld, þo sier hafe eige hlidt vered. bonde svarar ad hann hafe einga skulld i, þőtt so illa hafe tiltekest, helldur sieu þad őskȯp dőttur sinnar. Snorre byst burt hid hradasta, og fer ăleides med liked. tekur þă ad giȯra mikla sniődrifu ă mőte þeim med froste, og þă ă dagenn lïdur, tekur lïked ad fara illa ă hestenum, og snűast ȯfugt. giȯrest þad þă so þűngt, ad þeir koma þvi eige lengra enn ad eydehűsum nockrum ă melhollte einu, og þar bera þeir griőt ad þvi og disia. fara þar epter leid sina, og er ei annars geted enn þad geinge greidt. Um vored, þă uppleyser sniő, fer Snorre epter likenu, og er þă allt tidendalaust i þeirra ferd. er þad jardad ad kyrkiunne under Hraune er Styr hafde sialfur giȯra lăted. enn nockrum tïmum þar epter þă kyrkian brann, voru bein hanns upptekenn og flutt ad Helgafelle.

*byriar Cap.*

Nű frettest vïda vig Stijrs, og þijke·· mȯrgum mikels um verdt, ad Gestur so űngur madur, er alldrei hafde fyr vïg veiged, skyllde hafa vogad soddan stőrræde, vid slikann ofsamann er Styr var i lifenu, og mȯrgum stőd ogn af, og þőkte þetta miȯg hafa fared ad mălavȯxtum. Nű er þad ad segia fră Geste, ad

1. ad hallda henne] *sål.* B, T, R; med hana A. 2. umbrotum] kalle R. þar] og þ. R. 8. hrad. og fer] snar. og fara R. 12. eige] *sål.* B, T, R; ei A. enn ad] er þad hiå R *og opr.* T. 13. nockrum—einu] einum R. 14—15. er—greidt] geingr þeim greidt heim R. 17. er] *ved rett.* var T. under] ad R *og opr.* T. 19. tïmum] tïma R. kyrkian] sű kyrkia R. 20. *I et vistnok fra Helgafells kloster stammende obituarium angives som Víga-Styrs dødsdag 2. november. Se Íslenzkar ártíðaskrár s. 87.* 23. fyr] *udel.* R.

þeir Þorsteinn skilia þar vid ána. rennur Gestur sudur á leid til Borgarfiardar, og kemur ad Mel, sá hiet Halldór er þar bió, enn kona hanns var náskylld (kanske fodursyster Gests). Halldor spyr þvi so vïke vid ferdum hanns. Gestur greiner allt af vïge Styrs og bidur hann lidsinnes. Halldor bregdst stórlega reidur vid, og skipar hônum ad dragast burt frá sinum augum hid skiótasta, og eige sie hônum ad vænta lids hiá sier, er so miked óhappaverk hafe unned, ad drepa Styr slïkann hôfdingia. enn kona hans leggur bestu ord til vid bónda sinn. Gestur verdur fár vid, og meinar hann mune þeinkia sem hann talar, en þad var þo reyndar eige. er Geste fengenn hestr á laun, og nú þyker hônum betrast hagur sinn, ad hann er komenn á hestbak. ridur nú þadan á leid til Borgarfiardar slikt er hann má, og hefur eige marga náttstade adur hann kemur sudur yfer ána. kemur hann sïd um kvelld ad bæ Halldórs, og drepur á dyr. Þar kom húskarl út. Gestur bidur hann ad kalla Þordise konu Halldors á tal vid sig. hun var systrunga Gests. hún gengur út og kenner eige Gest i fyrstu. Gestur seger henne hvad hann á um ad vera, og i hvada vandrædum hann sie staddur. hún seger hônum skule til reidu sin hiálp, en hún sie uggande, hversu bonde sinn verde vid, þvi hann hafe vered vinur Styrs, enn vilie þó freista hvers hún fáe vid hann orkad. lætur Gest vera i útebure um nottena, so eingenn

2. Mel] Melum R. 3—4. náskylld—syster] *sål. ved senere tilf.* B, T; syster R *og opr.* B, T, A (*i* A *rett. til* fodursyster). 4—5. v. vid] vidvijke R. 5. greiner allt] seiger hônum frá R. 6. bregdst] verdur R. 7. skipar—ad] seiger hann skuli R. 12. meinar] ætlar R. þeinkia] meina R *og opr.* T. 15. þadan] *udel.* R. 20—21. hun—Gests] *ikke fremhævet, men opføres i citatlisten.* 21. gengur] kemur R. 26. freista] reina R.

veit af nema hūn og hūskarlinn. Þordis stendur snemma upp um morgunenn, ādur enn Halldōr. lætur hūn allblidt ad hȯnum, hann mæler ad eitthvad mune under þessu blidlæte būa, og mune hūn vilia bidia sig einhvers. hūn seger ad so er. og ef hann lāte þessa bōn epter sier, vilie hȯn i ȯllu gedþægia hȯnum sem hūn getur. seger ad frænde sinn Gestr sie þar komenn, og leite hanns lidsemdar, og seger hann hafe veged Styr i hefnd epter fȯdur sinn. Halldōr verdur ōdamāle, og seger, ad ef hann fāe fest hendur ā hȯnum, skule hann eige līfs frā sier komast, er slikt ōdādaverk hafe giȯrt ad drepa vin sinn og mesta hȯfdingia. Þar mātte ganga i kringum innanveggia allt hūsed, og hiengu tiȯlld fyrer sængenne. Gestur stendur ā bak vid tiallded ad hȯfde hȯnum, og heyrer alla þeirra vidrædu, og qvedur þa visu þeirrar meiningar, ad hann være būenn til ad leika vid hann sem Styr og riōda badar kidur hanns i blōde *(seger i visunne)* hestur hanns stōd sȯdladur ūte fyrer. hleijpur hann strax ā bak, og rīdur ad Gils-backa til Illuga svarta[1]. heilsar

[1] Um forfedur Illuga svarta getur Landnámasaga su þryckta p. 14. — *Ísl. I, 44-45* — (þar er hann 4de frā landnamsmanne) enn p. 28. et 29. — *Ísl. I, 66-68* — er hann sā 3ie. Dȯttur hanns nefner p. 33. — *Ísl. I, 75* — enn son hans, Hermund, Kristindoms saga p. 19. — *Bps. I, 5* — circa 1000. einnenn getur Bandamannasaga — *NO. s. 41* — um Hermund og hanns andlāt, enn þar er hann nockud gamall til ad vera samtijda Gelle Þorkelssyne. item Laxdælasaga Cap. 52. — *Samf. XIX, 286* — um hanns afspreinge. Um Illuga

1. veit af] afveit R. 10. -māle] -māla T, R. hȯnum] *sål.* B, R *og ved rett.* T; Geste A. 11. ōdāda-] *udel.* R. 13. innanveggia] *udel.* R. 14. sængenne] *udel.* R. G. stendur] Stōd G. R. 14—15. ā—tiallded] *udel.* R. 15—16. og—vidrædu] *udel.* R. 16. qvedur] kvad R. 17. leika] giȯra R. 20. ad G.] *udel.* R; *ved tilf.* T. 28. item] *sål.* B, T; lika A.

hönum og seger hver madur hann sie. Illuge spyr hvad tidenda sie i ferdum hanns. Gestur qvad visu. Þä spurdi Illugi hann. hversu mikenn äverka hann hefde veitt Styr. Þä qvad Gestr.

Varat um sár enn sárann
sák Viga-Styr hniga
böndum þarf at binda
beit hiálmastod þveita
þa er i brúnar beinum
bäglunds goda máge
unda sæg i augu
allraudann sák falla[1].

---

svarta getur Eyrbyggiasaga Cap. 9. fyrst 982 — *Lpz. s. 19-20* —. so einn og hinn same mun þesse Illuge vera, og kanske same sem Vatnsdælasaga — *Forns. s. 20* — telur vera komenn af Grime landnäms manne. *Ifølge Vatnsd. nedstammer dog Illuge svarte fra Grims broder Hromund.*

[1] epter Eddu sra Magnusar Olafssonar, og sü halfa epterkomande *(d. v. s. det i note 1, s. 33, anførte halvvers). Til noten föjer* B: Ergo hefur hann haft þessa sögu *og sål. også opr.* T, *men her rettet til* þö er ei vist þar fyrir ad hann hafe haft þessa sögu þvi ad i þeirre Eddu sem er a membrana i foliantbokum A. Magnussonar no. 242 i kenninga partenum stendur seinast a bladsydu upphaf þessarar visu Gestr hefnir Geitis (hefnir *ved fejllæsning af* hefvir), enn ei meir sidan mä sia, ad vantar tvö blod, og þar epter sü seinasta bladsida i bokenne. á þessum burtrifnu blödum getur þesse visa og sü halfa epterkomande hafa vered, enn ad nefnd Edda hafe vered i höndum sira Magnusar er vist af þeim blodum, sem i hana eru skrifud med hanns eigenhende. Hier

---

1. hver—sie] hvada manne hann er *ved rett.* T. 2. tidenda] *sål.* B *og ved rett.* T; tídt A, R. 3. Illugi] svarti *tilf. opr.* A, T. 4. Þä--Gestr] G. q. vísu þessa R. 14. og kanske] *sål.* B *og* T *ved rett. af* enn efanlegt hvert; *sål. også opr.* A, *men her alene* ef. *rett. til* kanske.

*Vers l.* 5 þa er] þegar R *og opr.* A, T. *V. l.* 7 sæg] *opr.* sög T; laug R.

bidur hann Illuga åsiår, tekur hann þvi ei fiærre, enn telur ad sier sie so mikel fiỏlskyllda å hende, ad hann treystest valla ad hallda hann med slikum mannfiỏllda, sem sier synest vid þurfa, og bidur hann fyrst ad fara til Bæar og finna Þorstein Gislason. fer nů Gestur þadan og til Þorsteins. kemur þar å alidnum dege og drepur å dyr. hůskarl einn kemur til dyra. þann bidur Gestur ad kalla Þorstein ůt. Þorsteinn kemur ůt, og spyr Gest ad heite og tidendum. Gestur qvad visu

af må siå ad kenningaparturenn i Eddu er seinna skrifadur enn þesse saga. *Ang. dette vers og halvverset i note 1, s. 33, kan bemærkes, at de bægge forekommer i håndskrifterne af præsten Magnús Ólafssons kompilation af Snorra Edda (den såk. Laufás-Edda), halvverset tillige i den for Resen besørgede trykte udg. 1665. Halvverset er utvivlsomt taget fra det sidst i AM. 242, fol. (Cod. Worm.) stående brudstykke af Skáldskaparmál, som nu består af 2 sammenhængende blade, hvorimellem sandsynligvis 2 er tabte (aftrykt Sn. Edda II, 1852, s. 495—500). Halvversets 1ste linje forekommer her bl. 1v nederst, og indholdet af bægge bevarede blade ses at være benyttet i Laufás-Edda i forbindelse med mere af samme art, der må antages at have stået på de tabte blade. Med hensyn til helverset er forholdet tvivlsommere, da det i Laufás-Edda håndskrifterne (sål. AM. 743, 4to) anføres efter slutningen af Edda-kompilationen i forbindelse med en del andre, som det synes fra forskellige kilder hentede, optegnelser; muligvis har M. O. afskrevet det direkte fra sagaen. M. O. († 1636) har utvivlsomt benyttet Cod. Worm., men de af J. O. nævnte, heri indlagte papirsblade er ikke skrevne med hans hånd, men af hans yngre samtidige, præsten Sveinn Jónsson.*

2. telur] seiger R. 4—5. fara—og] *udel.* R *og opr.* T. 6. Þst.] Gislasonar *tilf.* R. 7. einn] *udel.* R. 9. qvad] kvedur R.

þess innehallds, ad hann hafe veged Styr[1] og bidur Gestur hann nû âsiâr. Þorsteinn qvedur sier storann vanda â þessu, þar so marger og mikler eptermælendur sieu, og illt eitt mune hann hliôta af slikum ôhappamanne, og er helldur enn eige styggordur vid hann. Gestr qvad visu og enn adra. Þorsteinn seger sier sie eingenn þocke â visum hanns. Gestur qvad enn. Þorsteinn bidur hann hætta þvi, og seger hann skule þô vera hiâ sier nâttlangt. Um morgunenn sender hann Gest til Reykia, og bidur Kleppjarn[2] ad taka vid hônum. Kleppjarn telur Þorsteine þad skylldara, og hafe hann alldrei heited ad taka nockra vandræda menn af hônum. verdur Gestur þar þâ nôtt. fer þadan til Þorsteins aptur, og tekur hann þâ vel vid hônum. var hann ymist med Illuga, Kleppjarne edur Þorsteine um veturinn, þô leingstum med Þorsteine, og hôfdu þeir ôruggann vara â sier allann þann vetur. var hiâ Þorsteine sialldan færra en LX. karla um veturinn. lidur nu ad vordôgum.

[1] Þetta er helmingur af visu, sem Gestur qvad þâ, edur vid einhvern annann vina sinna i Borgarfirde, þâ hann var ad segia frâ vige Styrs.

Gestr hefner geitis rastar
galldrs midiungi skialldar
dundi diupra benia
dǫgg. rǫskligast hǫggvid.

[2] hvert þesse er same og landnamas. nefner p. 15. — *Ísl. I. 46* — tvila eg, nema hann hafe orded ædegamall.

---

2. nû] *udel.* R. 5. vid hann] *udel.* A. 11. telur] seiger R. 12. heited] hônum *tilf.* R. nockra—menn] *sål.* B, T, R; vid nockrum v. mônnum A. 13. fer] for R. 14. hônum] Þorst. var vist môdurbroder Gests *marg.-tilf.* T. 22. hefner] *af forf. rigtig rettet til* hefver *i AM. 429 III, fol. (JO.s afskrift af Snorra Edda).*

Madur hiet Teitur, ad illu einu kendur og var kalladur Fialla-teitur, þvi hann lã ã fiöllum ũte, og lifde þvi 'likara ſem hann væri illdyri enn hann væri maðr *(ss)*. Kleppjarn var þar sveitarhöfdinge. hann hafde nijbreitne þã, ad hann giörde mannsöfnud ad nã Teite, og hafde hann i böndum. visse eingenn hvar til þad skyllde, þvi hann hafde ãdur alldrei lãted hafa hendur ã hönum, þött hann være þrãtt um bedenn.

Nũ er ad segia fra Snorra. hann byr mãled ã hendur Borgfirdingum, enn þeir hafa bũed til lids fyrer framm ef hann kiæme. fer Snorre heiman med flock manna, enn giörer ãdur ord vinum sinum ad koma til lids vid sig, og þã þeir eru saman komner, rîda þeir aller sudur i Borgarfiörd. Borgfirdingar höfdu niösn af ferdum hanns, og hafa lidsafnad fyrer öllum vödum ũt til siafar, ad veria hönum ãna. Snorre kemur ad ãnne vestan framm vid Haugsenda. hefur hann VIII$^{c}$[1] manna, enn Borgfirdingar XII$^{c}$[2]. Gestur qvad visu um morguninn, adur hann fer heiman *ef eige tvær*. Snorre rîdur ad ãnne, og bidur þã selia fram vegandann. Þeir svara ad nũ hafe þeir so vid bũest, ad hönum mune eige kostur ad festa hendur ã hönum. Med

(1008 in right margin beside "Nũ er ad segia fra Snorra")

[1] cccc. seger Eyrb. s. Cap 38 — *Lpz. s. 103* —. Þar var i ferd med hönum Verm. hinn miove, broder Styrs hann bio þã i Vatnsfirdi. þar var og Steinþör af Eyre etc. Eyrb. s. telur þar upp mestu virdingamenn, sem voru med Snorra og Borgfirdingum.

[2] meir enn v$^{c}$. seger Eyrb. s. og er þad trũlegra enn hinn mannfiölldenn.

1. kendur] *Kan hertil svare citatlistens* kudr pro kunnr? 3. lifde] hann *tilf. citatlisten; B medtager i frakturen sætningen* þvi—ũte. 8—9. þött—bedenn] þo um kvartad væri R. 17. hönum] þeim A. 23. festa—hönum] *sål.* B, T, R; draga Gest ũr greipum sier A.

